# Ágrip af Æfisögu

## *Gunnlaugs Guðbrandssonar Briems,*

kammerráðs og sýslumanns í Eyafjarðar sýslu.

Samantekið af

**Jóni Jónssyni,**

presti til Grundar og Möðruvalla.



**Kaupmannahöfn.**

Prentað hjá *Bianco Luno.*

**1838.**

Deyr fe, deya frændur, deyr sjálfur it sama,
en orðstír deyr aldregi, hveim er sèr góðan getur.

*Hávamál.*

---

Sýslumaður kammerráð *Gunnlaugur Guðbrandsson Briem* var fæddur á Brjámslæk á Barðaströnd, þann 13da Janúarí 1773. Faðir hans var Guðbrandur prestur Sigurðarson prests, Þórðarsonar, Jónssonar, Guðmundssonar, Nikulássonar, þorsteinssonar sýslumanns, Finnbogasonar lögmanns, Jónssonar prests Maríuskálds, Jónssonar. En móðir hans var Sigríður Jónsdóttir prests á Gilsbakka, Jónssonar prests, Eyólfssonar prests, Jónssonar. Eptir ættfróðra manna sögn var kammerráð G. Briem, í föðurætt, 9di liður frá Jóni biskupi Arasyni, 11ti frá Torfa riddara og hirðstjóra Arasyni, og 12ti frá Lopti enum ríka Guttormssyni á Möðruvöllum. En í móðurætt var hann 11ti frá Birni þorleifssyni ríka, riddara og hirdstjóra, 18di frá Snorra lögmanni fróða Sturlusyni, 22ar frá Ísleifi biskupi Gissurarsyni, 24di frá Snorra goða þorgrímssyni, og 27di frá Haraldi konúngi hárfagra.

Þegar hann var 6 ára, misti hann föður sinn, sem á embættisferð að vitja sjúks manns, hrapaði í náttmyrkri til dauðs fyrir hjörg niður, sem vóru á vegi hans. Einu

ári eptir lát föður síns var hann til fósturs tekinn af hjónunum: prófasti síra Birni Haldórssyni í Sauðlauksdal og konu hans Rannveigu Ólafsdóttur, er bæði vóru hans skyldmenni. Fluttist hann svo með þeim þaðan að Setbergi í Eyrarsveit 1782, en eptir það hann hafði hjá þeim til fósturs verið hèrumbil 8 ára tíma, lètu þau hann sigla til Kaupmannahafnar haustið 1788, á hans 16da aldurs ári. Reisti hann þángað í för með biskupi herra Sigurði Steffánssyni, er þà fór utan að taka biskups vígslu. Straks sem biskupinn var til Kaupmannahafnar kominn, var þessi úngi maður Gunnlaugur inntekinn í bílætasmíðis kensluskóla, hvaðan hann útskrifaður varð 7 árum síðar, nefnilega árið 1795, og á sama ári þàði hann af konst-akademíinu silfur-medalíu til heiðurs fyrir atgjörfi sitt í bílætasmíði. Lifði hann þaráeptir um hríð á smíðum sínum, en lagði sig þó — auk bóknáms þess, er handverks-íþrótt hans útheimti — þaraðauki eptir latínumáls lærdómi, undir vegleiðslu frænda síns, þess hálærða Jóns Ólafssonar, bróður þeirra Eggerts og Magnúsar lögmanna; hvört mál hann svo numið hafði — þó aldrei opinberlega í því yfirheyrður væri — að hann skildi, eins vel og sumir skólageingnir, meðalmáta þíngskildar ritgjörðir á þá túngu. Í þýðsku máli var hann mæta vel að sèr, svo hann ekki einúngis skildi það ritað og talað, heldur og gat sjálfur talað það og ritað, eingu síður enn sitt egið móðurmál og dönsku. Hèrfyrirutan lagði hann sig í Kaupmannahöfn eptir lögvísi, í hvörri hann tók slíkum framförum, að þegar hann árið 1797 lèt sig í henni opinberlega ransaka, fèkk hann sem danskur júristi besta vitnisburð og var álitinn hæfur til dómaraembættis. Árið 1798 var hann kosinn til reglulegs meðlims í því konúnglega íslendska lærdómslista fèlagi. Fór hann svo aptur híngað til lands sumarið 1799, eptir nærri 11 ára dvöl í Kaupmannahöfn, sem tilsettur embættis aðstoðarmaður sýslumanns í Eyafjardar sýslu, Jóns Jakobssonar. Ári síðar, nefnilega 1800, gekk hann að

eiga systurdóttur nefnds sýslumanns Jóns, Jómfrú Valgerði Árnadóttur, prófasts á Breiðabólstað á Skógarströnd Sigurðarsonar, systur þeirra rektors Páls Árnasonar í Kaupmannahöfn og Jakobs prófasts á Gaulverjabæ og fleiri systkyna. Sama vor reistu þau hjón bú á Grund í Eyafirði. En þareð konúnglegri hátign þóknaðist, hönum óafvitandi, það sama ár, að kjósa hann til síns embættismanns, sem meðlim í þeirri þá stofnuðu Matrikul-kommissíón eður jarðamatníngar nefnd hèr á Íslandi, þá með því slíkt embætti útkrafði mikið ferðalag og reisur, hlaut hann að bregða aptur vori síðar, 1801, nýstofnuðum búskap. Höfðu svo þau hjón nokkur ár aðsetur sitt í ýmsum stöðum, fyrst eitt ár rúmt í Möðrufelli, annað tæplega í Reykjavík og þriðja á Hvítárvöllum. Árið 1803 gjörði hann snöggva reisu til Kaupmannahafnar og var íburtu að eins frá byrjun Apríls til miðju Júlímánaðar. Frá Hvítárvöllum flutti hann síðan árið 1804 að Arnarbæli á Fellsströnd, hvar hann reisti bú og bjó þar alls 3 ár. Sumarið 1805 reisti hann eptir konúngsboði utan, til að aflúka síðustu aðgjörðum sínum í Matrikul-kommissíóninni, og kom svo inn híngað sumarið eptir. Árið 1804 útnefndi konúngur Kristján 7di hann til síns kammersekretera og veitti hönum svo ári síðar Eyafjarðar sýslu. Flutti hann sig svo árið 1807 frá Arnarbæli að Kjarna í Eyafirði, hvar hann bjó í 8 ár. Á þeim tíma, nefnilega árið 1810, var hann settur af amtmanni konferentsráði St. Thórarensen til að gegna öllum norður- og austur-amtsins embættisverkum, meðan amtmaðurinn sjálfur þurfti að reisa til Reykjavíkur og dvelja þar, sem fyrsti meðlimur í þeirri þar þá stiftuðu svokölluðu interimistisku Bestyrelses-Kommission. Árið 1815 flutti hann sig með konu og börnum frá Kjarna að Grund í Eyafirði, hvar hann í fyrstu búskap reistan hafði. Sama sumar ferðaðist hann embættiserinda vegna til Kaupmannahafnar, hvar hann dvaldi til þess sumarið 1816. Það sama ár sæmdi konúngur Fridrik 6ti hann með virkilegs

kammerráðs nafnbót, fyrir hans dugnaðar sakir. Hèldt hann svo bú á Grund alltaf síðan til dánardægurs, alls nærfeldt í 19 ár.

Í sínu hjónabandi aflaði hann alls 10 barna, af hvörjum 3 eru dáin, en þau sem lifa eru þessi:

1. Jóhann Gunnlaugur, fæddur 1810; hann fór til Kaupmannahafnar, og eptir það hann fullkomnað hafði sinn háskólalærdóm, vígðist hann sem meðprestur til Bjarggrafar við Randarós á Jótlandi, giptist síðan og er nú prestur til Kústaðar sóknar í Áróss stifti.

2. Kristján Gunnlaugur, fæddur 1820; hann er sniðkari að handyerki, hvörja íþrótt hann nam í Rípum á Jótlandi, reisti svo utanríkis, dvaldi í Hamborg og Dresden, líka nokkur ár í Parísarborg, hvar hann nú er aðsestur.

3. Kristjana Jóhanna, fædd 1805; hún sigldi til Kaupmannahafnar og reisti í föruneyti með Frú Thorlacius, þá hún með manni sínum ferðaðist utanríkis, til Þýðskalands, Frakklands og Vallands, var einn vetur í Róm og annan í París, er nú gipt lærimeistara einum við gymnasíið í Bílefeld Dr. philos. Schütz.

4. Ólafur, fæddur 1808; hann sigldi til Kaupmannahafnar og lærði þar hússtimburmanns handverk, mæta vel að sèr í sinni íþrótt, kom híngað til lands aptur, eptir það hann hafði verið 6 vetur utan; ógiptur.

5. Eggert Ólafur, fæddur 1811; eptir að hann var hèr á landi úr skóla útskrifaður, sigldi hann til Kaupmannahafnar háskóla, hvar hann nú er. Eptir andlát föður síns, var hann settur um tíma að gegna sýslumanns verkum, áður hann sigldi.

6. Jóhanna Kristjana, fædd 1813; er nú gipt prestinum síra Gunnari Gunnarssyni í Laufási.

7. Jóhann Kristján, fæddur 1818; er nú í Bessastaða skóla, hefur verið einn vetur í Kaupmannahöfn.

Nú eptir það kammerráð sál. Briem hafði þjónað í opinberum embættum, fyrst sem hèraðsdómara fullmektugur 1 ár, sem meðlimur í jarðamatníngar nefndinni 4 ár,

og sem virkilegur hèraðsdómari nærfeldt 29 ár, var hann það síðasta árið við burtför amtmanns Gríms Jónssonar 1833 settur til að gegna öllum amtmanns verkum (án þess þó að afleggja sitt eginlega sýslumanns embætti), uns nýr virkilegur amtmaður kæmi, hvörsvegna hann hèldt þá til á amtmannssetrinu Friðriksgáfu, það sem eptir var af árinu. En svosem heilsufar hans var áður farið að grennast, virðist sem hann hafi heldur mikið á sig lagt við þessar embættisfærslur, þar hann og var þeirrar lundar, að spara ekki ómak til að reka embættisverk sín trúlega; því á ofanverðu árinu 1833 fèll hann í þúngan sjúkdóm, svo hann lá rúmfastur í nokkra mánuði í samfellu; þó skánaði hönum umsíðir svo aptur, að hann í öndverðum Febrúar 1834 komst heim til sín að Grund, án þess, sem sýndist, að líða mjög freka þjáníngu, nema hvað hann kendi yfirtaks mikils magnleysis í líkamanum. Eptir það hann hafði síðan um nokkra daga heima verið, greip magnleysið hann svo frekt, að það lagði hann til fulls og alls aptur í sængina, og dróg svo loksins af hönum, að hann misti alla líkamans krapta og málið að síðustu, uns það — þrátt fyrir allar læknarans tilraunir — svipti hann lífi að kvöldi þess 17da Febrúarí. Var hann svo greftraður þann 28da sama mánaðar.

En til þess að útmála gjörr sál. kammerráðsins þánkamáta, svovel í tilliti til hans embættisfærslu sèrílagi, sem hegðunar yfirhöfuð, vil eg tilsetja hèr þann þátt úr ræðu þeirri, sem haldin var opinberlega við greftrun hans, er að því efni lítur. Eptir það í sagðri ræðu hafði verið fyrir sjónir sett, hvörsu rèttvísin sè einhvör hinn kostulegasti mannkostur yfirhöfuð, en þó sèrílagi í tilliti embættismannsins, var svoleiðis orðum vikið með heimfærslu til þess sálaða: „Minníng hans einsog allra, sem „öðrum hafa átt að stjórna, má oss næsta mikilvæg vera. „Svosem áður er sýnt, að rèttvísin er allra, en einkum „yfirvaldsmanna, æðsta prýði og nauðsynlegasta dygð, þá, „einsog vor framliðni var um þetta sannfærður, svo kapp-

„kostaði hann líka alltíð að láta hana sèr til hægri hand-
„ar standa í sínum embættis athöfnum, svo hann lèt
„hvörki lof nè last af ásettu snúa sèr frá hennar eptir-
„fylgð og æfíngu. En svosem ekki er við að búast, að
„þeir sem meir tala um rèttvísi enn elska, framar lofa
„hana enn líða, unni hennar trúlyndu rækjurum alltíð
„maklegs saunmælis — einkum þegar verkan hennar
„stefnir ámóti sinni þeirra og sèrþótta — svo fèkk vor
„burtkallaði yfirmaður það líka svo að reyna. En slíkt
„mátti telja hönum sanna embættis-æru fyrir Guði og
„öllum rèttþeinkjandi mönnum. Því ef það er sannmælt
„og rèttbeðið, sem haft er eptir einum kirkjulærifödur í
„tilliti þess geistlega stands, að hann bað Guð að varð-
„veita sinn söfnuð frá þeim prestum, sem öllum geðjuð-
„ust og allir hrósuðu, hvörsu miklu framar má ósk sú
„uppstíga hjá oss í tilliti þeirra verðslegu yfirvalda? því
„svosem hið andlega sverð særir aldrei kroppinn, einsog
„það veraldlega, svo skeyta þeir sem hann elska framar
„enn sálina lítt um slög þess fyrra, þegar þeir skotist
„geta undan hinu síðara, en geti þeir það ekki, íllskast
„þeir og vinir þeirra í þeli niðri við þá, sem hlotið hafa
„þá með því að særa, en forsmá hina. En þetta má
„báðum tveim, þessara Guðs sverða trúlyndu berurum, í
„lèttu rúmi liggja, þar þeir vita, að þeir hafa öðrum að
„standa reikníng ráðsmennsku sinnar enn dauðlegum og
„máske dygðaslökum manneskjum. Verði laganna sverð
„aldrei svo gott sem blóðugt í hendi þess það ber, er
„hætt við — meðan heimurinn er ekki orðinn betri enn
„hann er; — það sè til forgefins borið (Rom. 13, 4).
„„Blóð skaltú því ei banna, burtsníð þú grein lastanna;
„merk dæmi Móysis"! sýngur vort ærnverða gamla sálm-
„askáld. Til nokkurs merkis um þánkamáta þessa vors
„sæla yfirmanns í sögðum efnum, má þetta eina eptir-
„fylgjanda dæmi þèna fyrir mörg: fyrir litlu leingri tíma
„enn einu ári síðan heyrði eg sjálfur hann tala rètt sem
„í Móysis anda um vissa sök, sem ýmsir af alþýðu —

„sumir af fávitsku, sumir máske af fylgi — höfðu gagn-
„stæðt álit á, að hann mundi, ef að því kæmi, í henni
„dæma, án þess að þeinkja, sem dómarinn í Gyðíngalandi
„forðum: „að gjöra fólkinu þarmeð fullnægju," og vera
„svo reiðubúinn að leggjast í sína gröf. Þetta tal hans
„var mèr í það sinn órækur vottur elsku hans til rètt-
„lætisins, og það í Guðs augliti —. þar hann undireins
„mintist á dauða sinn; en nú er mèr það meira, mèr er
„það nú sem honum óafvitandi hulin hugspá *) um hans
„skamvinnu lífstundir þaráeptir í þessum heimi, midt
„undir samvitskunnar góða vitnisburði um hans rèttdæmis-
„elsku fyrir Guði. Ennframar vil eg þess geta, að svo-
„sem úrskurðir hans, þó sumum af undirmönnum hans
„nokkuð strángir þættu, urðu þó aldrei hönum til nokk-
„urs vansóma — það eg veit — af yfirdómstólunum
„umbreyttir; svo vissi eg líka til að hann ól þann
„þánkamáta, að svo framarlega sínir dómar — til straffs
„eður sekta — hlytu að umbreytast, kans hann að um-
„breytíng sú mætti ske heldur á þann hàtt að þeir linað-
„ir yrðu enn herðtir, því það væri skylda undirdómar-
„ans trúlega að fylgja laganna bókstaf, þar kóngur einn
„mætti honum breyta, en undirsátinn ekki. Þetta þeinkti
„hann og talaði sem rèttvísinnar sannur og kóngdóms-
„ins trúfastur heiðrari**). En hèraðauki hefi eg eitt
„fullvíst og merkilegt dæmi, sem berlega sýnir, að hans
„katóniska fastheldni við rèttvísina var ekki um of, þar
„ein sèrleg sök, í hvörri hann fyrir mörgum árum feldi

*) Sú fágæta og eins sjálfum þeim sem henni gæddir eru, sem öðrum, óskiljanlega gáfa, að óra fyrir sumu, fanst að vitund minni hjá hönum ástundum, einsog hún átt hafði líka heima hjá nokkrum í ætt hans. Vèr erum enn nú mestu börn í sálarfræðinni, og þekkjum valla nema staf-rofið.

**) Trúskapur hans við konúng sinn og embættiseið skein á vissan hátt merkilega fram á þeim freistíngartíma, sem yfir Ísland kom sumarið 1809.

„þvílíkan dóm, sem af sumum hans næstu yfirdómurum „unsteyptist í mótsett form, var af hæðsta rètti færður „aptur í líkt horf, sem hann í fyrstu fyrir hans dóm-„stóli feingið hafði*). Þetta sè hans minníngu, þó ekki „síður sjálfri rèttvísinni, en þó einkum hönum, sem elsku „til hennar plantað hafði svo fast í hans brjósti, til heið-„urs sagt. En af hvörju flaut nú þessa vors sæla yfir-„boðara svo fast inngróna elska til rèttvísinnar? Sannar-„lega, vona eg, af elsku til sjálfs rèttvísinnar eilífa föð-„urs; því hann vissi vel að dómendur þeir, sem eru „hinir rèttlátustu, eru hönum hinir allra-líkustu og þess-„vegna hönum hinir allra-þekkustu. Nú svo lítt sem „hann sem dómari gaf eptir annara sanna rètt, öðrum „til þægðar (hvörki þeim ríkari þess fátækara fyrir vin-„áttu skuld, nè þeim fátækari þess ríkara af meðaumkun), „svo eptirgjöfull var hann stundum í tilliti síns egin „rèttar, bæði hvað sakir og gjöld snerti; og þvílík er „art þeirrar rèttvísu miskunar, sem rèttvísinnar og misk-„unarinnar faðir heimtar af öllum sem það tilnær, eink-„um af þeim sem hans stands eru. En offáir af hans „undirhafandi þekktu þó og virðtu dygðir þessar í fari „hans, þar hleypidóma ský glöptu augu þeirra, af því „forsjónin hafði ákvarðað hönum að lifa og verka á þeirri „öld, sem sèrvitska, sjálfræði og egingirni hafa allt of „mikla yfirhönd**). Þarfyrirutan var hann, að minni

*) sjá Tillæg til den Danske Statstidende No. 88, 1813.

**) Ad hann þessum óaldarhleypidómi um sjálfan sig hafi ekki ókunnugur verið, en þó, sem maklegt var, ekki skeytt, heldur huggað sig við góða samvitsku, sèst berlega af ljóðmælum þeim, er hann fyrir nokkrum árum samdi, og nefndi "grafskrift" (yfir sjálfan sig). Í þeim finnast meðal annara þessi erindi:

"Sumum allvel, sumum þeim mun lakar, fèll mín breytni'
"á ferð í heim, fáum skeytti' eg dómum þeim.

"Drottins eins er dómurinn að hinstu, um lofið heims og
"löstun þar, líði rentar ekki par.

„þekkíugu, saklaus frá að hafa alið sig á annara blóði, „eða vera í þeirra tölu, sem á þann hátt leggja einn akur „til annars (Es. 5, 8). Þennan sinn lofsverða þánka- „máta prýddi vor sálugi ogsvo með heiðrun sinna trúar- „bragða, því vandlæti, ekki að eins fyrir reglulegu við- „haldi útvortis guðsdýrkunar, heldur og fyrir siðsemi „við hennar tíðkun sýndi hann optar enn eitt sinn, þegar „þörf krafði; og þó hann ekki svo opt talaði um trúar- „bragða efni, samt þegar hann við viss tilfelli um nokk- „uð audlegt heimuglega eður opinberlega talaði, talaði „hann það svo hjartanlega, að það var auðfundið, að „hann þarfyrirutan þeinkti meira enn hann talaði, sem „opt er einkenni þeirra vitru*). Þau feil, sem nokkrir, „er þó annars ekki misþekktu alls aðra mannkosti hans, „þóttust hjá hönum finna, vóru helst þau, að hann átti „bágt með að snúa kápunni eptir veðrinu, með öðrum „orðum: að smjaðra; því hann gat ekki talað þvert um „huga sinn, svo það sem hönum í brjósti bjó, enda þó „hann fátt talaði, sást opt á yfirbragði hans. Hann gat, „já hann vildi fyrir eingan mun vera einsog þeir, sem

"Ef vort hjarta oss fordæmir eigi, dýrstu geymum djörfúng
"þá, til Drottins Guðs vors himnum á.

"Yður, hvörjum ekki var eg þekkur, Guð allsherjar gefi'
"eg sè, gleymdur brádt á jörðunni!

"Að á mèr þèr ekki framar hneiglist, og sem eg einatt sá
"til rök, syndgist fyrir mína sök.

"Yður, hvörjum að eg geðjast náði, minnast bið ei mín, en
"hans, ens mikla Guðs og skaparans.

"Hvörjumtveggia' eg hugeinlægast beiði, láti Drottinn líkn
"í tè, og líf um síð í dýrðinni.

*) Í sínu daglega tali var hann annars framar gagnorður maður enn margorður; og þegar það bar við, að lund hans lífgaðist lítið eitt af hóflega brúkuðu víni, var viðræða hans hin ástúðlegasta, en innihèldt þó ætíð sönn vísdómsorð, er sýndi hans innra mann.

„geta kyst á þá hönd sem þeir vildu af væri; hvað
„hönum ókunuugir, eg vil ekki tala um ósanngjarnir,
„álitu ólempni og geðstyrðleika, enda þó það í rauninni
„væri miklu framar í ætt við hreinskilni, enn það gagn-
„stæða. Hvað hans heimuglega líferni snertir, þá var
„það aldeilis samboðið hans opinbera lifnaðarmáta, þar
„hann alltíð var hinn sami alvarlegi, hreinlyndi og æru-
„kæri maður, svovel innan sinna húsdyra sem utan,
„svovel sem húsfaðir sem dómari, svovel við undirgefna
„sem yfirboðna, við vini sem óvini. Sinni hússtjórn hag-
„aði hann með allri þeirri reglusemi, sem hönum auðið
„var. Fyrir sannri velferð ektakvinnu og barna bar hann
„ágæta umhyggju, og var skynsamlega vandlátur um
„sómasamlega hegðun hjúa sinna og heimilisfólks, bar
„ogsvo alla þá umsorgun fyrir bústandsins naudsynjum,
„sem hann án þess að vanrækja sín eginleg embættisverk
„ — hvör hann alltíð, jafnvel með skaða sínum, lèt í
„fyrirrúmi sitja — fèkk viðkomið. Fús var hann á að
„styrkja hvört heldur almennar eður einstakar nauðþurft-
„ir, þegar hann sá að sönn velferð annara — eptir
„verðugleikum — gat þarvið áorkast. Gæddur þvílíkum
„þánka- og lifnaðar-máta framdróg hann sína lífdaga í
„Guðs, kóngsins og föðurlandsins þènustu, í 61 ár sem
„heimsborgari, 35 ár sem opinber embættismaður, og
„nærri 34 ár sem ektamaður. Vegna sinnar trúskapar-
„fullu embættisfærslu, sem hönum opt ýmsra orsaka vegna
„var heldur til mæðufull, hlaut hann stundum, sem áður
„er ávikið, að leggja ofmikið á sína innri sem ytri
„krapta, hvað með öðru, að öllum líkindum, flýtt hefur
„lífi hans fram að takmarki allra dauðlegra, svo það
„hefur á vissan hátt sannast à hönum sem Seneka segir:
„Stríðsmaður sà fær eðallegan afgáng, sem deyr í bardag-
„anum, haldandi á hjálminum í hendi sèr," en þó öllu
„framar, að von vorri, orð þau, sem sjáandinn forðum
„heyrði þann mæla, sem stóð ámilli sjö gulllegra ljósa-

„stjaka, svolátandi: „hvör sem yfirvinnur, hönum mun „eg gefa að sitja með mèr á mínum stóli" (Op. b. 3, 21). „Þannig er nú þessi vor sálugi herra útgeinginn af „þessa lífs orustu velli, saknaður af öllum góðum, syrgð-„ur af sínum ástvinum, sæmdur af sínum yfirmönnum, „en sannmetinn af sjálfum Guði."

**D á i n n h v í l i r h è r**

*Dómari Eyfirðínga,*

Kammerráðs nafnbót af kóngi sæmdur,

# *Gunnlaugur Briem Guðbrands sonur,*

*andaður 17da Febrúar 1834,*
*einu ári hnígin yfir sextugan.*

---

Sèðan hefur nú
sálar augum
dómara heimsins,
Drottinn allsherjar;
heyrðan úrskurð hans
um hagi sína,
endalausar of
alda raðir;

Reyndar án ráðgátu
rèttlætis hans
og miskunar
megindýptir;
skoðaðar dásemdir
sköptum ofháar;
numinn griðastað
að náðar lögbergi.

---

Lof sè þeim sem lifir að eilífu,
frumburði Guðs og framliðinna.

Þannig setti

*Jón Jónsson.*

# Bríms minníng

*Margs er at minnast*
*margs at sakna,*
*hallast að hörmum*
*harpan forna,*
*Hljómar heldst*
*nm hrun og tjón,*
*liðna frændur,*
*látna vini.*

*Minnist ek Gunnlangs*
*Guðbrandssonar*
*Bríms, þeim einginn*
*betri fæðist:*
*er þess vottur*
*Íslands túnga,*
*sanna það Danir,*
*sanna Þjóðverjar.*

*Ólst hinn úngi*
*Íslendingur*
*npp við Hafnar*
*aðalsmíði,*
*þar með frægstum*
*Þorvalds nið*
*nam hann listir*
*likhams minda.*

*Heiðurslaun*
*honum veittnst*
*í háskóla*
*æðstu lista;*
*hvarf þó hugur*
*hans til menta*
*latínn náms*
*ok lögspeki.*

*Man ek þik Brím!*
*meðan hjari,*
*þá um sinn*
*við saman bjnggum,*
*vinar þel*
*þitt hið skíra,*
*hóf og þolgæði,*
*þínar dygðir!*

*Hrímgrundar son*
*heim tók fýsa;*
*nnntist för*
*að öðlings boði;*
*gjörvallt land*
*gafst at kanna,*
*landeign alla*
*at álíta.*

*Síðan um kyrrt*
*hann setjast mátti,*
*öðlaðist sýslu*
*Eyafjarðar;*
*vann hún aldrei*
*valdsmann kærra,*
*rèttindum einginn*
*unni fremur.*

*Virðíng verðskulduð*
*veittist honum*
*konúngs eins*
*ok alþýðu;*
*unntust mannvali*
*ástir skírstar,*
*samboðin frú*
*og fjöldi barna.*

*Sextíu ára,*
*einu betur,*
*hèrvist hans*
*í heimi taldist;*
*margs var at minnast,*
*mikils at sakna,*
*þegar hann*
*heimti dauði.*

*Syrgir sýsla,*
*syrgir ekkja,*
*heiðvirð börn*
*um heim víðan:*
*á Íslandi,*
*í Danmörku,*
*Þýðskra og Frankskra*
*þjóða ríkjum.*

*Sakna vinir,*
*sakna landar*
*Bríms hins rèttláta*
*ok ráðvanda;*
*minníng hans*
*heiðruð lifir:*
*blómgist ætt*
*uns aldir þrjóta!*

**Finnur Magnússon.**